

# Í ANDLEGRI NÁLÆGÐ VIÐ ÍSLAND

EINAR P. JÓNSSON





*Talið frá vinstri til hægri* — Hr. Sveinn Björnsson, forseti Íslands; séra Valdimar J. Eylands, prestur Fyrsta lúterska safnaðar í Winnipeg; Hannes Pétursson, kaupsýslumaður í Winnipeg; Einar P. Jónsson, ritstjóri "Lögbergs"; Grettir L. Jóhannsson, ræðismaður; Stefán Einarsson, ritstjóri "Heimskringlu".

# Ferðahugleiðingar frá lýðveldisárinu 1944

FJÖLDI þeirra Íslendinga, er langvistum dvelja erlendis, eru tíðum með hugann heima á Íslandi, og þá vitaskuld einkum þeir, sem fulltíða fluttust af föðurlandi sínu; á þeim sannast jafnan hið fornkveðna:

*"Röm er sú taug,*
*er rekka dregur*
*föðurtúna til."*

Það er eitthvað meira en lítið bogið við þá menn, sem ekki unna hugástum stofnþjóð sinni og landi; þeir menn, sem þannig er ástatt með hafa, eins og Stephan G. Stephansson segir í kvæðinu Jón hrak, af einhverjum furðulegum ástæðum "slæðst inn í ættir landsins", utanveltu hins eina og sanna þjóðræknislega hjónabands, og eiga að lokum, hvar sem leið þeirra liggur, ekkert föðurland.

Oft hefir mig dreymt heim þá þrjá áratug-

ina, eð freklega það, sem eg hefi dvalið í þessu landi, þó vel hafi farið um mig, og líf mitt af mörgum ástæðum eigi sterkar rætur hér; í huga mínum hefir fjarlægðin gert íslenzku fjöllin blárri og mennina meiri; þetta hafa hvorki verið ofsjónir né hillingar; atburðirnir, sem gerðust á Þingvelli við Öxará þann 17. júní í sumar hafa afsannað hvers konar draumóra um Ísland og framtíð þess; nú blasa við augum í virkri staðreynd háfjöll hins undraverðasta þjóðfélags þroska, og ekki einungis miklir menn, heldur meiri menn, en áður voru á ferð; bjartsýnir og vitrir menn, sem vissu og skildu, að æfintýrið á Þingvelli þoldi ekki lengri bið, sæmdar þjóðarinnar og framtíðar hennar vegna.

Oft hefi eg fundið til andlegrar nálægðar við Ísland á hinni löngu dvöl minni vestan hafs; en dagana, sem eg dvaldi nýlega í New York, fanst mér eg komist hafa einna næst ættlandi mínu og skilið þjóðina hvað bezt; eg finn ljóslega í hve djúpri þakklætisskuld eg persónulega stend við utanríkisráðuneyti Íslands og ríkisstjórnina í heild, vegna boðsins til New York, og eg vil að það skiljist, að þökk mín kemur beint frá hjartanu.

Eins og þegar er vitað, vorum við fimm boðsgestirnir frá Winnipeg; þrír félagar mínir, þeir

séra Valdimar, Hannes Pétursson og Grettir ræðismaður, lögðu undir sig loftið og litu niður á brimrót skýja, en við ritstjórarnir héldum okkur við jörðina, eins og hlutskipti okkar jafnaðarlegast er; för hinna fyrnefndu stóð ekki yfir nema liðlega ellefu klukkustundir, en okkar Stefáns freklega tvo sólarhringa.

Svo þröngt er um farkost á þessum styrjaldar tímum, að fyrri nóttina á leiðinni til Toronto, urðum við Stefán að ganga í eina og sömu sæng, og sofa tilfætis, því ekki var nú fletið á Canadian National breiðara en það; þetta kom þó ekki að sök, og hneykslar vitaskuld enga nema þá, sem af gömlum og lítt sæmandi vana telja sér trú um, að þá sé andlegum og veraldlegum málum vor Vestmanna bezt borgið, er ritstjórarnir rífast eins og hundar.

Við fórum yfir landamærin skamt frá Niagarafossum og komum til Buffalo í New York-ríkinu um tíu leytið á laugardagsmorguninn þann 26. ágúst; veður var fagurt og sólfar mikið annað veifið; eftir því, sem austar dró, varð landslag æ fegurra; viðdvalir voru það stuttar, að ekki var viðlit að fara út úr lestinni hvað mikið sem mann langaði til að rétta úr sér; um óraveg lyppaðist lestin austur með hinu mikla Hudson fljóti, sem nefnast mætti eins

konar Breiðifjörður New York ríkis; hin fögru bændabýli hins hvíta manns, er hvarvetna blöstu við, báru dramatískt vitni þeim hinum mikla ósigri, er Indíánarnir eins og svo víða annarsstaðar á þessu mikla meginlandi, höfðu beðið.

Nú var tekið að rökkva. Landið varð æ hæðóttara, og sumstaðar komu í ljós hálsar og jafnvel fjöll; þetta var um búverkatímann, og reyk lagði hvarvetna upp af hinum vingjarnlegu híbýlum bændanna; mér varð litið á hið breiða fljót; á því var stafalogn og í því endurspegluðust hnjúkar og hálsar; skaut þá upp í huga mínum eftirfarandi vísu Gríms Thomsen:

*"Leggur reyki beint upp bæja*
*blæ eg sé ei nokkurn anda,*
*en um sjóinn gegnum glæja*
*gömul fjöll á höfði standa."*

Lestin var dálítið á eftir áætlun; hún rann inn á Pennsylvania-stöðina laust eftir hálf-níu um kvöldið; er stöð sú eitt hið fáránlegasta gímald, og stórfurða að ókunnugir ferðalangar jafnvel týni ekki sjálfum sér; við Stefán lituðumst um stundarkorn í hinni miklu mannþröng; alt í einu heyrum við sagt: "Nú, þeir eru þá

þarna!" Þetta voru þeir Hannes Pétursson og Grettir ræðismaður að taka á móti okkur og bjóða okkur velkomna í umboði Dr. Helga Briem aðalræðismanns Íslands í New York.

Því næst var ekið til Hotel Savoy Plaza, þess yndislega staðar, þar sem okkur var búin vistarvera; á morgun stóð mikið til, þá var forsetans von, utanríkisráðherrans, sendiherrans og annars stómennis; eg hafði það á meðvitundinni að minsta kosti þá stundina, yrði eg alkominn heim.

Eg var ekki fyr kominn í rúmið en eg steinsofnaði, og vaknaði ekki fyr en eftir klukkan 8 á sunnudagsmorguninn; eftir að eg hafði lagað mig til í andlitinu eins og sagt er, fór eg niður á fyrsta gólf hótelsins, í þeim óhagganlega á setningi, að fara út á götu og litast um á Fifth Avenue; var þá alt í einu kallað til mín með þrumustyrkri rödd: "Sæll, austfirzki frændi og kollegi; eg tek ekki í mál að þú farir einn út í ókunna víðáttuna." Þetta var Gunnar B. Björnson.

* * *

Um klukkan hálf-þrjú var von á forseta og föruneyti hans frá Washington til La Guardia

flugvallarins; tíminn leið fljótar en mig varði; og þegar eg var að hugsa um hina tignu fulltrúa hins endurborna Íslands, sem eg þá og þegar kæmi til fundar við, minntist eg vísu Hannesar Hafstein:

*"Einhver hljóður andblær titrar*
*andardrætti líkur manns,*
*þegar óðfús eftirvænting*
*alla fyllir sálu hans."*

Um huga minn flögruðu svipir úr sögu Íslands, Gullöldin, Hungurvaka og Svartidauði; smánarleg erlend kúgun, hinn undrunarverði viðnámsþróttur þjóðarinnar, viðreisnar- og endursköpunartímabilið frá síðustu aldamótum, og nú síðast æfintýrið á Þingvelli, þar sem Guð vors lands og góðir menn leiddu þjóðina út úr eyðimörkinni og inn í fullveldi frjálsborinna manna; eg fann að hátíðleg stund var í aðsigi, og eg beið hennar með óðfúsri eftirvæntingu.

Við ferðafélagarnir frá Winnipeg höfðum mælt okkur mót við anddyri Hotel Savoy, klukkuna vantaði nokkrar mínútur í tvö, við stigum samstundis upp í leigubíl og ókum af stað til flugvallarins; á leiðinni naut víða góðs útsýnis yfir hina miklu og glæsilegu borg; er til flug-

vallarins kom, var þar fyrir múgur manns; við flugstöðina kom eg skjótt auga á stóran bíl, skreyttan stjörnufána Bandaríkjanna og krossfána Íslands; hjá honum stóð hvatlegur maður, fremur lágvaxinn, en hnellinn eins og Napóleon; eg þekti hann undir eins af myndum; þetta var hinn víðfrægi borgarstjóri New York borgar, La Guardia, er hingað var kominn til þess að fagna forseta Íslands; við hlið hans stóð Dr. Helgi P. Briem, aðalræðismaður Íslands í New York, er þar var staddur til þess að fagna forseta og föruneyti hans af hálfu íslenzku þjóðarinnar; í för með honum var frú hans og dóttir; meðan við biðum flugvélarinnar, var eg að litast um utan við flugstöðina, þar var eg kynntur yfirlögreglustjóra borgarinnar, vöskum manni og glæsilegum, er eg átti við töluvert samtal, og þar hitti eg, eftir meira en þrjátíu ár, vin minn Ólaf Johnson, stórkaupmann og viðskiptaumboðsmann fyrir Íslands hönd í New York; kveðjurnar voru hlýjar; mér virtist hann sama sem ekkert hafa breyzt, nema þá helzt að hann væri enn glæsilegri en þegar eg seinast sá hann á Íslandi; og nú var sú silfurvængjaða, eins og Bjarni Guðmundsson kallaði hana, farþegaflugvélin frá Washington, í þann veginn að svífa niður á völlinn.

Lögregluvörður umlukti flugstöðina ásamt borðalögðum hernaðaryfirvöldum; þó strangar gætur væru hafðar á öllu, var andrúmsloftið einkar vingjarnlegt, og okkur löndunum, sem nú voru orðnir margir, greiðlega leyfður aðgangur að flugvellinum um leið og sú silfurvængjaða lenti.

Forsetinn var kominn. Herra Sveinn Björnsson, forseti íslenzka lýðveldisins, steig léttilega út úr flugvélinni; þar næst kom utanríkisráðherrann, herra Vilhjálmur Þór; þá sendiherra Íslands í Washington, herra Thor Thors og frú Ágústa Thors; en næst komu á vettvang herra Pétur Eggerz, ritari forseta, herra Bjarni Guðmundsson, blaðafulltrúi utanríkisráðuneytisins, hera Hinrik Björnsson, sonur forsetans, ásamt frú sinni Gígju, dóttir forseta ungfrú Elísabet, Dr. Edward Thorlákson og Jakob Jónsson fylgdarmaður forseta, ásamt nokkrum tignum amerískum embættismönnum.

Þeir Dr. Helgi P. Briem og Mr. La Guardia borgarstjóri í New York, tóku á móti forseta og buðu hann velkominn, en að því loknu kynti aðalræðismaður utanríkisráðherra fyrir borgarstjóra; nú vanst nokkuð svigrúm til að litast um og skiptast á kveðjum; mér hlýnaði um hjartaræturnar, er eg tók í hendina á forn-

vini mínum, Sveini forseta Björnssyni, þessum djúpvitra og háttprúða forustumanni íslenzku þjóðarinnar; viðmótið var hið sama og fyr, alúðin sú sama; mér fanst eg vera kominn heim í íslenzkan fjallafaðm og um sál mína léki hressandi andblær, sem feykt hefði í burtu hverjum einasta og einum skýflóka af söguhimni stofnþjóðar minnar; á þessari ógleymanlegu fagnaðarstund rann eg saman við Ísland í eitt; í sál minni endurómuðu ljóðlínur Steingríms:

*"Svo traust við Ísland mig tengja bönd*
*ei trúrri binda son við móður."*

Ósegjanlegt ánægjuefni var mér það að taka í hönd hinna virðulegu höfðingshjóna Thors sendiherra og frúar hans þarna á flugvellinum og endurnýja við þau vinskapinn; eg á þeim þakkarskuld að gjalda vegna vináttu þeirra og drengskapar í minn garð; og nú veittist mér í fyrsta skipti á æfinni kostur á að heilsa utanríkisráðherra Íslands, herra Vilhjálmi Þór, og sannfærðist eg skjótt um, að þar væri vökumaður á ferð, "þéttur á velli og þéttur í lund."

Á flugvellinum mætti eg einnig í fyrsta sinn "kollega" mínum, herra Bjarna Guðmundssyni,

blaðafulltrúa utanríkisráðuneytisins; er hann hinn elskuverðasti maður, sem vissulega á hönk upp í bakið á mér fyrir þá drengilegu aðstoð, er hann veitti mér við fréttasendingarnar til Lögbergs; þá var og engu síður fagnaðarefni, að endurnýja vinskap við herra sendiráðsritara Hinrik Björnsson og frú Gígju, og kynnast dóttur forsetans, ungfrú Elísabetu, sem er hin yndislegasta stúlka; einnig hitti eg þarna góðvin minn, Dr. Edward Thorlákson, sem starfar fyrir stríðsupplýsinga skrifstofu Bandaríkjastjórnar, ásamt hinum glæsilega ritara forsetans, herra Pétri Eggerz, og fylgdarmanni forseta, herra Jakob Jónssyni, sem er hinn mesti myndarmaður.

Frá landfræðilegu sjónarmiði séð, er La Guardia flugvöllurinn í New York óraveg frá Íslandi; í andlegum skilningi hurfu þó fjarlægðirnar þenna áminsta sunnudag; fögnuðurinn og vináttuböndin höfðu, að mér fanst, þurkað þær út að fullu og öllu.

Landnámi íslenzkrar tungu eru engin takmörk sett; í mannfélagsiðunni þarna á La Guardia flugvellinum svona langt að heiman, barst ómur ástkæra, ylhýra málsins frá munni til munns, frá hjarta til hjarta; málsins, sem svo er vængjað og víðfeðmt, að það á, eins og

Einar Benediktsson sagði, orð yfir alt, sem er hugsað á jörðu. —

Þegar hér var komið sögu tóku fylkingar að riðlast, því móttöku athöfninni var lokið; forseti Íslands ók af stað í stóra flaggskreytta bílnum við hlið hins hörundsdökka og samanrekna borgarstjóra þeirra New York búa, eitthvað út í hina miklu töfraborg, þar sem skýjakljúfarnir beina ögrandi háturnum til himins; eitthvað átta risavaxnir lögreglumenn á bifhjólum, fylgdu borgarstjóra bílnum úr hlaði, allir með stjörnufánann og krossfánann framan á farartækjum sínum, en fánum skrýddar bifreiðar sigldu í kjölfar þeirra; augnabliki sem þessu gleymir enginn viðstaddur Íslendingur, nei, enginn!

Við fóstbræður kræktum nú í leigubíl og ókum sem leið liggur til Savoy Plaza; við mæltum fátt á leiðinni, en að eg hygg, hugsuðum því fleira. — —

Nokkru eftir að eg kom inn í íbúð mína á 14. hæð, hringdi dyrabjallan, og innan nokkurra sekúndna vindur sér inn úr dyrunum ungur maður spriklandi af fjöri; þetta var Dr. Helgi P. Briem, aðalræðismaður Íslands í New York, er bauð mig formlega velkominn sem gest íslenzku ríkisstjórnarinnar, og kvað sér hafa þótt

fyrir, að hann, vegna annríkis hefði ekki átt tök á að mæta mér persónulega á járnbrautarstöðinni kvöldið áður. Dr. Helgi er sonur hins gagnmerka manns Páls Briem, er síðastur var amtmaður Norður og- og Austur-amtsins áður en ömtin og embættin, sem þeim voru samfara, voru lögð niður. Móðir Dr. Helga, ef eg man rétt, var Álfhildur, dóttir Helga Hálfdánarsonar lektors við prestaskóla Íslands; standa því að honum styrkir stofnar í bæði kyn. Dr. Helgi er kvæntur enskri konu, sem mikið sópar að.

*"Tíminn líður, trúðu mér,*
*taktu maður vara á þér."*

Það veitti vissulega ekki af því, að taka vara á sér og hafa hraðan við, því nú var mjög tekið að líða á dag, en um kvöldið skyldi setin veizla mikil og vegleg á Waldorf Astoria hótelinu undir forustu Dr. Helga Briem, og var svo fyrir mælt að gestir allir frá Íslandi, Canada og Bandaríkjunum yrðu til veizlunnar komnir eigi síðar en klukkan 7. Þetta var eina "formal" eða viðhafnarvezlan í ferð okkar, og þangað urðu allir að koma í veizluklæðum, hvort heldur þeir yrðu að skreyta sig með lánuðum fjöðrum eða ekki. Eg var rétt í þann veginn að koma mér í

tilætlaðar stellingar, er síminn í íbúð minni hringdi; þetta var Grettir ræðismaður, sem hafði orðið, og bað mig blessaðan að koma í snatri til fundar við sig upp á 19. hæð, en þar hafði hann bækistöð sína; er þangað kom tjáði ræðismaðurinn mér, að hann væri í standandi vandræðum, því hann hefði gleymt að taka með sér harðan viðeigandi kraga; eg þaut af stað eins og kólfi væri skotið upp á "Central", en svo nefndi eg bústað þeirra séra Valdimars, Hannesar Péturssonar, Dr. Becks og Stefáns ritstjóra, og skýrði frá í hvert óefni væri komið fyrir Gretti ræðismanni. Guðmundur dómari Grímsson, sem ávalt er boðinn og búinn til aðstoðar við alt og alla, sagðist halda að hann ætti viðeigandi kraga niðri í íbúð sinni; en þá sprettur séra Valdimar úr sæti og segir eitthvað á þessa leið: "Ætli að svírinn á okkur Gretti sé ekki eitthvað svipaður að ummáli, hérna er kragi, sem eg hefi aflögu." Með þessu var vandamálið leyst; ræðismaðurinn fór með prestskraga, ekki messukraga, í veizluna. —

Þeir séra Valdimar, Hannes Pétursson og Grettir ræðismaður, höfðu verið í New York á fjórða dag, er við Stefán ritstjóri komum þangað; höfðu þeir vitaskuld farið víða og kynnst mörgu, sem við hinir ekki áttum kost á að færa

okkur í nyt vegna tímaskorts; eg er ekki forvitinn maður að eðlisfari og spurðist þar af leiðandi lítt fyrir um athafnir ferðafélaga minna; en einhvern veginn komst eg á snoðir um, að þeir kirkjuhöfðingjarnir, Valdimar og Hannes, hefðu með skjótum atburðum týnst eitt kvöldið; síðar komst eg að því, að þeir hefðu í einingu andans og bandi friðarins farið saman á bíó.

* * *

Klukkan á slaginu sjö á sunnudagskvöldið, vorum við ferðafélagarnir frá Winnipeg komnir til Waldorf Arstoria hótelsins, sem talið er glæsilegasta hótel New York borgar og eiga mun fáa sína líka, þó leitað sé í víðri veröld; og víst er um það, að gott þótti mér um að litast, er inn úr anddyrinu kom, þó annað lægi mér þyngra á hjarta en amerískir skýjakljúfar, þótt stórfenglegir séu að vísu, og beri áræðnum anda og hagri hönd fagurt vitni; eg var ekki í neinum efa um erindi mitt til þessarar fögru borgar; það var aðeins eitt, eða með öðrum orðum það, að koma til fundar við íslenzka vini bæði heiman af Íslandi og víðsvegar úr þessu mikla meginlandi; andlitin á flugvellinum fyr um daginn,

stóðu ljóslifandi fyrir hugskotssjónum mínum, og nú átti eg von á að hitta fleiri vini og stofna til kunningskapar við konur og menn, er eg aldrei áður hafði augum litið; eg hlakkaði til þess að heilsa hinum virðulega forseta íslenzka lýðveldisins í annað skiptið sama daginn og eiga þá kost á að tala við hann vitund meira; þetta lánaðist mér, og mun mér slíkt seint úr minni líða.

Áður en veizla sú hin virðulega, sem Dr. Helgi P. Briem og frú hans höfðu boðið til, hófst, fór fram móttökuathöfn, þar sem gestir voru kyntir, eða kyntu sig sjálfir, eftir því sem atvikin höguðu því til; var þar gnótt margvíslegrar hressingar, svo hvorki skorti gleði né góðan fagnað. Eftir að eg hafði heilsað hinum tignu gestum af Íslandi, heyrði eg sagt með styrkri og karlmannlegri rödd: "Einar, nú er langt síðan fundum okkar hefir borið saman; þökk fyrir síðast. Konan mín hefir matarást á þér." Eg hugsaði með sjálfum mér að matarást væri þó skömmminni til skárri en engin ást. Maðurinn, sem ávarpaði mig var Dr. Sveinbjörn Johnson, aldavinur minn, prófessor í lögvísi við háskólann í Illinois; er hann glæsimenni hið mesta, og hverjum manni háttprúðari; kona Sveinbjörns er af amerískum og norrænum

ættum, fædd, ef mig minnir rétt, í Minnesotaríkinu; hún er hin elskuverðasta kona, sem ber órofatrygð til Íslands og íslenzku þjóðarinnar; hún hafði veður af því hvað maður hennar sagði við mig, og sagðist enn ekki vera búin að gleyma blessuðu skyrinu, sem eg í tveimur heimsóknum þeirra hjóna til Winnipeg hefði verið svo vænn að gæða þeim á. Dr. Sveinbjörn er sjaldgæfur vinnuvíkingur; hann hefir verið dómsmálaráðherra í North Dakota og dómari í hæztarétti þess ríkis, prófessor við háskólann í Illinois, haft með höndum ábyrgðarmikil vandastörf fyrir Bandaríkjastjórn, og leitar nú í haust kosningar til dómsmálaráðherra-embættis í hinu afarfjölmenna Illinois-ríki af hálfu Demokrata. Sveinbjörn ann Íslandi hugástum; hann hefir samið bækur, auk fjölda ritgerða, og nú hefir hann lagt síðasta smiðshöggið á þýðinguna af hinni fornfrægu lögbók, Grágás, af íslenzku á enska tungu.

Er hér var komið sögu, varð það mitt næsta hlutskipti, að taka í hendina á brosleitum og tígulegum manni, er eg skjótt bar kensl á; þessi maður var Garðar stórkaupmaður Gíslason, og nú var orðið langt um liðið frá því, er fundum okkar síðast bar saman; eg hafði ógleymanlega ánægju af að endurnýja við hann kunnings-

skap og kynnast hinni gjörfulegu konu hans, sem er óperusöngkona af ítölskum aðalsættum; eftir þetta bar fundum okkar daglega saman þann stutta tíma, sem eg dvaldi í New York.

Víðfrægasti Íslendingur, sem nú er uppi, er vafalaust Dr. Vilhjálmur Stefánsson: þó skoðanir Íslendinga séu með mörgum og mismunandi háttum, þá skiptast þær naumast um það; margþætt vísindastarfsemi hans er fyrir löngu viðurkend vítt um heim, og ritsnilli hans að makleikum rómuð; það þurfti enginn að kynna okkur hvorn fyrir öðrum; fundum okkar hafði oft borið saman í Winnipeg, þar sem við höfðum spjallað saman um eitt og annað, og það um harla fjarskyld efni; eg hafði ósegjanlega ánægju af því að hitta hann í þessum glæsilega hóp gamalla og nýrra vina, og það því fremur sem hann var nú eigi lengur maður einsamall, heldur hafði staðfest ráð sitt eins og eg og fleiri góðir menn; hann kynti mig þegar konu sinni, og varð mér það meira fagnaðarefni, en skýrt verði frá í fáum ferðaminningabrotum; frú Stefánsson er amerísk að ætt og enn á bezta aldursskeiði; hún er óvenju fögur kona, víðment og prúð í fasi; hún ann hljómlist, en gefur sig meira við ritstörfum; eg átti því láni að fagna, að eiga við hana oftar en einu sinni

þó nokkurt viðtal; þau Dr. Vilhjálmur og hans elskuverða frú sýndu mér þann innileik í viðmóti, er seint fyrnist yfir.

Eitthvert hugboð hafði eg um það, að það ætti fyrir mér að liggja í þessari óvæntu æfintýraferð minni til New York, að fá að heilsa upp á Halldór Hermannsson bókavörð við Fiskesafnið og prófessor við Cornell háskolann, þenna hógláta, en laun-spaugsama fræðaþul og þó hann hefði aldrei annað unnið sér til helgi á vettvangi bókmentanna en semja og gefa út Islandica í öll þessi ár, mundi það eitt hafa nægt til þess að halda nafni hans lengi á lofti; mér hafði borist til eyrna í fyrra, að heilsu hans væri ekki sem allra bezt farið, en þeim mun meiri fögnuð vakti það í sál minni, er eg nú hitti hann þarna brosandi og karlmannlegan, með eld æskunnar í augum og miklu unglegri ásýdum, en hliðstæður árafjöldi svipmerkir margan samferðamanninn; eg hafði einu sinni hitt Dr. Halldór áður, en það var, er hann endur fyrir löngu, flutti ræðu á Íslendingadegi í Winnipeg.

Lögberg og Heimskringla standa í djúpri þakkarskuld við Dr. Stefán Einarsson, prófessor við Johns Hopkins háskólann í Baltimore fyrir andlegt örlæti hans við þau bæði jafnt; hann

hefir, síðan hann kom til Vesturheims, sent þeim fjölda ritgerða og pistla, er fallið hafa í frjóva jörð hjá lesendum blaðanna; mér hafði lengi leikið hugur á að kynnast honum persónulega, og nú hafði tækifærið með óvæntum atburðum borist upp í hendurnar. Dr. Briem hafði skýrt mér frá því, að við Dr. Stefán ættum að vera sessunautar í veizlunni, og þótti mér þá hnífur minn koma í feitt. Dr. Stefán er austfirzkur að uppruna, og fanst mér þegar sem hann í rauninni bæri það utan á sér; hann er fjörugur, spaugsamur eða jafnvel meira en það; hann trúir á Þórberg Þórðarson, og skoðar hann ómissandi í bókmentum samtíðar vorrar; en hann trúir vitaskuld á fleira en þenna pennapostula; mér virtist Dr. Stefán manna líftrúaðastur, framgjarn hugsæismaður með óbilandi trú á sigurmátt íslenzks þjóðernis í þess orðs sönnustu og beztu merkingu.

Þegar María Markan dvaldi hjá okkur hér í borginni og dáleiddi okkur með sinni óviðjafnlegu rödd og sinni næmu tóntúlkun, var eg vitaskuld einn í þeirra hópi, er dáðu persónuleik hennar og sjaldgæfa raddfegurð, og þegar hún fór, hafði eg ekkert hugboð um það, hvort fundum okkar mundi nokkuru sinni bera saman á ný eða ekki; en nú kom hún í þessari and-

ránni brosandi á móti mér, bauð mig hjartanlega velkominn og kynti mig hinum háttprúða og drengilega manni sínum, hr. Georg Östlund rafmagnsverkfræðing; eg var gagnkunnugur foreldrum hans frá því eg var unglingur, er þau voru á Seyðisfirði, og seinna í Reykjavík; það væri synd að segja að ekki sópaði að þeim Maríu og Georg, þar sem þau koma fram hlið við hlið. — —

Nú var komið að þeim tíma, er gengið skyldi til borðs, og báðu þau Dr. Briem og frú gesti sína að koma sér fyrir við veizluborðin í þeirri röð, sem ætlast hefði verið til; bað Dr. Briem þá séra Valdimar J. Eylands að flytja borðbæn, en að því loknu bauð aðalræðismaður velkominn, forseta Íslands, utanríkisráðherra, sendiherrahjónin frá Washington og aðra gesti; flutti hann mál sitt af miklu fjöri og kryddaði það með fyndni.

Yfir borðum flaug mér í hug vísa Breiðfjörðs:

*Veiztu vinur hvar*
*verðug lofdýrðar,*
*gestrisnin á guðastóli situr?*

Yfir þessari veglegu og ríkmannlegu veizlu,

hvíldi hressandi blær hinnar sannízlenzku gestrisni þar sem allir voru eins og heima hjá sér, en þá er hámarki gestrisninnar náð.

Vegna þess hve Bjarni Guðmundsson blaðafulltrúi utanríkisráðuneytisins, lýsti skilmerkilega hér í blaðinu þessu virðulega veizluhaldi þeirra aðalræðismannshjónanna, vil eg ekki eiga það á hættu, að veikja greinargerð hans með óþörfum endurtekningum, en endurtek þökk mína til þeirra fyrir boðið og ástúðlegar viðtökur af þeirra hálfu; komið var fram undir miðnætti, er þessum eftirminnilega mannfagnaði sleit.

Þetta áminsta veizlukvöld var eftirminnilega fagurt, og nóttin var stjörnubjört; yfir borginni miklu hvíldi dulrænn friður; eg sneri á ljósunum, er eg kom inn í íbúð mína á hótelinu, en slökti þau aftur og litaðist um frá stórum glugganum; á festingunni tindruðu stjörnurnar — draumur guðs — og blönduðust á draumrænan hátt ljóshafi risaborgarinnar, er deplaði miljónum rafaugna í hvaða átt sem litið var. Eg vissi að eg var í órafjarlægð frá ættlandi mínu, en til hinnar andlegu nálægðar við Ísland fann eg í þetta skipti ef til vill ljósar en nokkru sinni fyr, einn og aleinn í vestrænni næturkyrðinni.

Eg reis ekki úr rekkju fyr en um dagmálaleytið á mánudaginn, endurhresstur eftir langan og væran svefn; mér varð litið út um gluggann á íbúð minni; umhverfið sýndist gerbreytt frá kvöldinu áður; í stað hins draumræna ljósahafs, blasti nú heimur veruleikans við auga með önn og ys hins hraðfara athafnalífs; götur allar voru krökar af fólki og bílafylkingarnar því nær ótæmandi í hvaða átt sem litið var; eg sá í fyrsta skipti með eigin augum ameríska annríkið, ameríska hraðann, og sannfærðist um, að með hliðsjón af slíkum fyrirbærum, hefði ekkert af því verið ofsagt, er eg áður hafði heyrt eða lesið um; hið frjálsmannlega fas fólksins bar kostum lýðræðisins ósegjanlega fagurt vitni.

Útsýnið frá glugganum mínum rifjaði ósjálfrátt upp í vitund minni vísu Steingríms:

*"Vor er inndælt, eg það veit,*
*þá ástar kveður raustin,*
*en ekkert fegra á fold eg leit*
*en fagurt kvöld á haustin."*

Fljótt á litið sýndist skógurinn að vísu iðjagrænn; en við nánari athugun varð maður þess var, að hér og þar voru greinar og blöð, eins og Einar H. Kvaran sagði um íslenzku eltinguna,

í þann veginn að sýkjast af kolbrandi; angan blóms og blaðs var angan haustsins.

En nú hvarflaði hugurinn til ferðafélaga minna; eg hringdi í Gretti ræðismann; hann var þegar fokinn út í veður og vind; þvílíkur morgunhani! Eg flýtti mér inn í lyftuna og fór rakleitt upp á "Central"; þar var glatt á hjalla; þar voru þeir allir eins og nýslegnir túskildingar, þeir séra Valdimar, Hannes, Stefán ritstjóri Dr. Beck og Grettir ræðismaður, en í hópinn hafði bæzt Guðmundur dómari Grímsson, þessi öðlingur, sem svo var hugulsamur, að hann þá hafði einsett sér, að bjóða séra Valdimar og okkur ritstjórunum í útsýnisferð um borgina, þó það kostaði hann ærið fé; því miður sá eg mér ekki fært að þiggja þetta drengilega boð vinar míns Guðmundar dómara, vegna þess hve eg þurfti að hafa hraðann við; eg var hvorki heill né óskiptur á ferðalaginu; konan mín var ein heima, og hjá henni var eg jafnan með hálfan hugann, eða betur en það; þar að auki var þá nær sem vera vildi von systur minnar til Winnipeg, frú Maríu Straumfjörð frá Seattle, einu systurinnar sem eg á; þetta hvorttveggja stytti dvöl mína í New York um heilan dag.

Eg átti ekki langa viðdvöl á "Central" í þetta

skiptið; hugur minn stefndi út; eitthvað út — í sólina og daginn.

*"Eg rakst á Jakob rauða*
*og Jakob rakst á mig".*

Þessar ljóðlínur eftir K. N. standa, ef mig minnir rétt, einhversstaðar í Kviðlingunum; eg var ekki fyr kominn út úr lyftunni og niður á jafnsléttu, en eg rakst á Gunnar B. og hann á mig; mér kom ekki til lifandis hugar, að heimfæra litarhátt Jakobs upp á Gunar, hvað þá heldur mig; en í bókstaflegum skilningi varð ekki um áreksturinn efast. Gunnar eggjaði mig þegar til útgöngu, eða æfintýris á gönguför; eg minnist þess, að fyrir ári eða svo, hafði Gunnar illu heilli orðið fyrir byltu, og þó hann nú væri fyrir löngu gróinn sára sinna. mér og öðrum hinum mörgu vinum hans til lífstíðaránægju, þá gekk eg þess eigi dulinn, að maðurinn stakk lítið eitt við. "Sjáðu þennan," sagði Gunnar, og benti á lurk einn harla mikinn, er hann hélt á í hendi. "Þessi lætur sér ekki til skammar verða," bætti hann brosandi við. Eg treysti Gunnari en ekki lurknum. Æfintýrið á gönguför var ekki leikið að þessu sinni; við Gunnar stigum upp í leigubíl og ókum eitthvað út í

buskann; þó eigi langt frá hóteli okkar; hann sagðist þekkja afkomanda Júlíusar Cesars þar í grendinni, sem hann vildi láta mig kynnast. Gunnar er ótæmandi vísnabrunnur, og við vorum ekki fyr komnir á áfangastað, en hann var farinn að raula fyrir munni sér:

*"Við það augun verða hörð.*
*við það batnar manni strax."*

Hvort hér átti við amen eftir efninu, hugsaði eg ekki út í. Gunnar "bestilti" eitthvað hjá blessuðum Rómverjanum í fagurlýstum salarkynnum; það var víst ágætis vekjari, ef vekjara hefði þurft við, en slíku var vitaskuld ekki til að dreifa. Gunnar borgaði brúsann; hann vildi borga fyrir alt, en í þetta skipti gat eg með snarræði svikist að því, að gera upp við bílstjórann. Við höfðum ekki verið nema svo sem drykklanga stund á morgunslangrinu, og þegar við komum á Savoy Plaza aftur, var frú Björnsson komin á vettvang, broshýr og tíguleg, líkt og væri hún sjálf Aþena, nýsprungin út úr höfðinu á Seivi. — Eg hefi lengi fagnað yfir því hve dýrmætur gróði það hefir verið mér, að eiga Björnsson fjölskylduna að vini! — —

Allir dagar líða fljótt; sumir of fljótt, að því

er manni finst; til slíkra daga tel eg áminstan mánudag í risaborginni austur við hafið.

Um daginn leit eg snöggvast inn á aðalræðismannsskrifstofuna í Fuller-byggingunni, þar sem dr. Briem ræður ríkjum, og varð þar aðnjótandi hinnar mestu alúðar; þar heilsaði mér fyrst íslenzk stúlka, einkar aðlaðandi og með fagran málblæ; var þetta ungfrú Ásta Helgadóttir, ritari aðalræðismannsins; hún er ættuð úr Reykjavík, systir Hallgríms Helgasonar tónskálds; aðalræðismanns skrifstofan sýndist ávalt troðfull af fólki; fólki heiman af Íslandi og annarsstaðar frá; allir voru í flýti, og alla afgreiddi dr. Briem og starfsfólk hans með lipurð og ástúðleik. Eg kynntist þarna í einni svipan álitlegri fylkingu mannvænlegra meyja og sveina að heiman; var fólk þetta djarfmannlegt í framgöngu og líklegt til dáðríks æfistarfs þegar lengra kæmi út í lífið; fólk þetta bar á sér ýmis einkenni nútímahraðans, jafnvel í málfari, og þegar það kvaddi mig, féllu því orð eitthvað á þessa leið: "Heilsum forsetanum í kvöld, bless, bless!"

Klukkan var orðin fimm um kvöldið, og salurinn okkar á Waldorf Astoria þéttskipaður glöðum gestum, eða líklegast eitthvað um 300 Íslendingum víðsvegar að; við ferðafélagarnir

frá Winnipeg vorum í þann veginn að verða slíkir heimagangar í þessari voldugustu gistihöll heimsins, að við töluðum um salinn okkar, eða að minsta kosti kom eg ávalt þangað með slíkt í huga. Eg litaðist um í salnum og skiptist á skyndikveðjum við nokkra kunningja; mér fanst eg vera kominn á þjóðræknisþing, því í einni og sömu andrá, kom eg auga á hvorki meira né minna en þrjá forseta; lýðveldisforsetann, herra Svein Björnsson, og þá Þjóðræknisfélagsforsetana, Dr. Beck og séra Valdimar J. Eylands. Vissulega var þessi mannfundur þjóðræknisþing, þar sem alt fór fram á íslenzku og djarfmannlegur andi hins endurborna, íslenzka lýðveldis sveif yfir vötnunum; þessi virðulega kynningarathöfn fór fram undir forustu þeirra Dr. Helga P. Briem og frú Briem.

Við þessa virðulegu athöfn veittist mér tækifæri til þess á ný, að eiga viðtal við Svein forseta og hina gestina að heiman, ásamt því að endurnýja vinskap við fleiri vini, og stofna til viðkynningar við marga nýja.

Nú varð mér tekið í hendina á dr. Árna Helgasyni og hinni elskuverðu frú hans. Árni er Hafnfirðingur að ætt, en frú hans úr íslenzku bygðinni í North Dakota. Árni Helgason á merkilega sögu að baki; hann kemur vestur eitthvað

um tvítugs aldur; vinnur á búgörðum, útskrifast í búvísindum af landbúnaðarháskólanum í Fargo; að því loknu leggur hann leið sína til Chicago, vinnur þar baki brotnu við rafiðju á daginn, en gengur á skóla um kvöld, og léttir eigi fyr af en hann er orðinn fullvængjaður rafurmagnsverkfræðingur; hann hlýtur síðan margvíslegar mannvirðingar, þar á meðal doktorsnafnbót; og nú rekur hann fyrir eigin reikning risafyrirtæki á sviði raftækjaframleiðslunnar í hinni miklu Chicago-borg; verksmiðja hans hlaut í fyrra viðurkenningu af hálfu amerískra stjórnarvalda fyrir afköst og vöruvöndun. Saga dr. Árna er næsta lærdómsrík, og holl til eftirbreytni.

Fyrir mörgum árum kyntist eg í Winnipeg Steingrími Arasyni skólastjóra og frú, er þau áttu hér stutta viðdvöl; mér varð það mikið ánægjuefni að hitta þau þarna á ný, lífsglöð og frjálsmannleg. Steingrímur er kunnur rithöfundur vegna ágætra kenslubkóa í íslenzku, og nú síðast af bók sinni "Smoky Bay".

Þegar konan mín dvaldi á Íslandi 1934 og 1935, tókst með henni og Steingrími Arasyni og frú, gott vinfengi, og þegar eg kvaddi Steingrím, bað hann mig að kyssa konuna mína fyrir sig; eg kvaðst engu vilja heita um það, en lét það á

mér skiljast, að þessháttar kveðjur afgreiddu karlmenni jafnan persónulega. Steingrímur kvaddi mig upp á nútíma reykvísku: Kem til Winnipeg, bless, bless!

Og nú fór eg að masa við vin minn Dr. Beck. við höfðum nú búið undir sama þaki í tvo sólarhringa á Savoy Plaza, en naumast skiptzt á orðum vegna annríkis; nú spjölluðum við saman um stund; hann var spriklandi af fjöri, svo að segja nýkominn úr Íslandsförinni og enn með hugann heima; hann sagðist naumast enn vera búinn að átta sig á öllum æfintýrunum heima, og svo hefði nú ofan á alt bæzt þetta ógleymanlega New York æfintýri; eftir alt þetta, sagðist hann hljóta að verða tvíelfdur þjóðræknisbardagamaður, og féll sá ásetningur hans hjá mér í frjóvan jarðveg.

Meðal þeirra manna heiman af Íslandi, er eg kyntist í veizluhöldunum í sambandi við forseta komuna, ber að telja herra Helga Þorsteinsson umboðsmann Sambands íslenzkra samvinnufélaga, Jón Björnsson og Svein Valfells, sem báðir gefa sig við kaupsýslu í stórum stíl; allir þessir menn komu mér fyrir sjónir sem glæsilegir fulltrúar hinnar íslenzku verzlunarstéttar; kona Sveins Valfells er dóttir Ágústs H. Bjarnasonar, bráðgáfuð og gjörfuleg kona. Gaman

hafði eg einnig af því, að hitta þarna Franz Andersen kaupsýslumann úr Reykjavík og Þóru konu hans; þau voru mér bæði gamalkunnug frá Íslandi og eins í Winnipeg; þá var mér það ekki minni ánægja, að kynnast Ólafi J. Ólafssyni, sem er amerískur borgari, búsettur í New York, glæsilegur maður og háttprúður; hann var fyrir skömmu kominn frá Reykjavík, þar sem hann gegndi um hríð fyrir hönd Bandaríkjastjórnar eftirliti með láns- og leigulöggjöfinni, varðandi Ísland.

Og nú bergmálaði um móttökusalinn yndisleg kvenrödd; það var frú María Markan Östlund, sem söng, en því næst kváðu við íslenzkir þjóðsöngvar; frú María lék undirspil, en Garðar stórkaupmaður var sólóisti í "Þórði á spítalanum", og dró vissulega ekki af sér; þegar eg var í skóla heima, varðaði það því nær skóggangs sök, að raula á ganginum vísurnar um Þórð, því þær voru eftir sjálfan rektorinn, Björn Olsen, ortar á stúdentsárum hans, löngu áður en hann óx að embættisvirðingu; í ameríska frelsinu þarna á Waldorf Astoria, mátti alt segjast og syngjast að vild. Og nú var tekið að kyrja "Ólafur reið með björgum fram", og einsöngvarinn var frú Stefánsson, kona dr. Vilhjálms Stefánssonar; mér brá í brún; eg vissi að hún

var al-amerísk kona, en íslenzkuna bar hún eins fagurlega fram og hún hefði verið borin og barnfædd á Íslandi; íslenzk tunga átti einum nýliðanum fleira þar sem frú Stefánsson var; og þar sem við átti, söng kórinn, það er að segja veizlugestir, fullum hálsi, og lá ekki á liði sínu; móttakan á Waldorf Astoria, hafði alt í einu snúist upp í sönghátíð!

Ekki þarf að taka það fram, að gnótt væri góðrar hressingar á þessari fögru og eftirminnilegu móttökuhátíð fyrir forseta Íslands, því íslenzkri gestrisni eru sjaldan takmörk sett, en nú var stundaglasið runnið út og þessum unaðslega mannfagnaði slitið.

*"Bíddu sem snöggvast maður minn,*
*á morgun er nýtt að heyra."*

* * *

Þegar eg kom á vettvang á þriðjudagsmorguninn, hafði eg það samstundis á meðvitundinni, að nú væri annríki mikið í vændum, því mér hafði til þess að byrja með, borist í hendur boðsbréf frá borgarstjóranum, La Guardia, til þess að vera við móttökufagnað fyrir forseta íslenzka lýðveldisins í ráðhúsi risaborgarinnar

klukkan hálf eitt þá um daginn; eg fann til þess að þar yrði vitaskuld um sögulegan atburð að ræða; atburð, sem valda mundi straumhvörfum í sögu stofnþjóðar minnar.

Frá því er eg fyrst mundi eftir mér og fór vitund að kynnast sögu og baráttu íslenzku þjóðarinnar, hafði mig ávalt dreymt um hana sem frjálsa og fullvalda þjóð; eg var á Þingvöllum, er Bjarni frá Vogi haslaði þar krossfánanum völl; fánanum, sem Einar Benediktsson orti um hið eggjandi og ódauðlega ljóð sitt; mér stóð jafnan í fersku minni, er danskir oflátar réðust að Einari Péturssyni bróður Sigurjóns á Álafossi fyrir það, að hann hafði á smákænu á Reykjavíkurhöfn einhverja pjötlumynd, er tákna skyldi þjóðfána Íslands; þessi atburður, ásamt vitaskuld mörgum fleirum, rifjaðist upp í huga mínum þenna fagra og eftirminnilega þriðjudagsmorgun í "einverunnar helgidómi" í hinni vingjarnlegu íbúð minni á Savoy Plaza hótelinu; það dirfðist enginn að amast við krossfána Íslands á flugvellinum í New York sunnudaginn á undan, og nú vissi eg, að seinna um daginn mundi eg verða sjónarvottur að því, að sjá hann á ný blakta við hlið stjörnufána hinnar voldugu Bandaríkjaþjóðar við hið mikla ráðhús þeirra New York-

búa seinna um daginn; tilhugsunin um það vakti í sál minni óumræðilegan fögnuð; með stofnun lýðveldisins hafði Ísland ekki öðlast nafnfrelsið eitt, heldur fullfrelsi, sem siðmannaðar þjóðir heims, fundu til metnaðar yfir að viðurkenna og virða.. —

Nú minnist eg ummæla hins virðulega forseta íslenzka lýðveldisins á mannfagnaðinum á Waldorf Astoria, sem þau dr. Briem aðalræðismaður og frú, höfðu stofnað til; en skömmu áður en Sveinn forseti lagði upp í vesturförina, hafði hann ferðast allvíða um Ísland, og mætt hvarvetna, sem vænta mátti, hinum ástúðlegustu viðtökum; í áminstri veizlu fórust Sveini forseta meðal annars þannig orð:

"Það er vorhugur í íslenzku þjóðinni, það fann eg bezt á ferðum mínum um landið, þar sem margir sögðu að ferðalag mitt hefði verið áframhald af 17. júní. Nú finn eg enn hversu 17. júní á djúp ítök með þjóðinni, eg finn líka hve stórt Ísland er, þegar eg sé yður öll hér, og mér er ljóst, að för mín hefði verið ófullkomin, ef eg hefði eigi séð yður." Það opnaði fyrir mér nýja heima, að hlusta á þessi fögru og drengilegu orð æðsta valdsmanns íslenzku þjóðarinnar, og þá ekki hvað sízt á tímamótum sem þessum, er svo mikill fjöldi fólks, sýnist vera

að tapa traustinu á öllu og öllum. — Og nú í sömu andránni mintist eg þess, að hafa nýlega lesið í "Fálkanum," blaðinu sem vinur minn, Skúli Skúlason, gefur út í Reykjavík, ummæli um fyrsta lýðveldisforseta Íslands, þar sem hann er kallaður "mesti mannkostamaður íslenzku þjóðarinnar," og ætla eg að þar sé um ábyggileg sannmæli að ræða; við þessar einveruhugleiðingar mínar skaut upp í huganum fyrstu vísunni í verðlaunaljóði Jóhannesar úr Kötlum frá 17. júní í sumar:

*"Land míns föður, landið mitt,*
*laugað bláum straumi;*
*eilíft vakir auglit þitt*
*ofar tímans glaumi.*
*Þetta auglit elskum vér,*
*— œvi vor á jörðu hér*
*brot af þínu bergi er,*
*blik af þínum draumi."*

Að eg, að minsta kosti á þessu augnablikinu, stæði í andlegri nálægð við Ísland, uppruna minn og ætt, kom mér ekki til hugar að efast um.

En hví að gefa sig draumórum á vald? Var ekki þetta augnablik, eins og í rauninni öll

önnur augnablik mannsævinnar, líf veruleikans? Vissulega var það svo, þó það á hinn bóginn væri undursamlega dýrðlegt, að láta hugann dvelja um hríð við draumalandið norður í höfum.

"Út vil ek." — Eg snaraði mér inn í lyftuna, og var á augnabliki kominn út á Fifth Avenue, þar sem eg "hitti mig sjálfan á barnanna leið" eins og Einar Benediktsson sagði; morgunloftið var óumræðilega hressandi; eg var á þessu slangri í því nær þrjá stundarfjórðunga, og hálf-gleymdi tímanum; ljóðlínur Stephans G. Stephanssonar vöktu mig brátt úr leiðslu:

*"Svo ertu Ísland í eðli mitt fest,*
*að einungis gröfin oss skilur."*

Nú komst eg að raun um, að vissara var að hafa hraðan við, því áður en langt um liði skyldi lagt upp í ferðina til ráðhússins; jafnskjótt og eg kom til hótels míns, flýtti eg mér upp á "Central" og það stóð heima; þeir ferðafélagar mínir voru svo að segja til taks, og innan fárra mínúta vorum við stignir upp í leigubílana og lagðir af stað áleiðis til ráðhússins; eins og gefur að skilja, vorum við allir í sjöunda himni, því nú stóð mikið til; útsýnið

var fagurt og tilkomumikið; þegar við vorum komnir á breiða veginn Broadway, þar sem umferðin var sem allra þéttust, gerðist sá atburður, að ein hjólgjörðin á bílnum flattist út, og varð því eigi lengra komist á slíku farartæki; um leið og þetta gerðist, skaut þarna upp í kringum okkur slíkum sæg lögregluþjóna, að eg varð því nær forviða, því þeirra gætti tiltölulega lítt áður; minti þetta á púkamergð í írskum ævintýrum; bilun hjólgjarðarinnar kom þó eigi að sök, því svo að segja í einni svipan vorum við komnir upp í annan leigubíl, og upp frá því bar ekkert markvert til titla eða tíðinda fyr en í áfangastað kom.

Ráðhús New York borgar er, eins og vænta má, heljar mikil bygging; að minsta kosti fanst mér það, borið saman við krílið okkar í Winnipeg, þar sem Garnet Coulter um þessar mundir ræður ríkjum; við höfðum boðsbréfin frá LaGuardia, svo engin minsta hætta var á, að okkur yrði synjað aðgangs; er að ráðhúsströppunum kom, greip mig undarleg tilfinning; mikill mannfjöldi hafði þegar safnast fyrir á staðnum; gagnvart megin-innganginum var skeifumynduð fylking lögregluriddara á fríðum fákum, en til beggja handa hervörður; og allur þessi mikli viðbúnaður var vegna komu forseta

íslenzka lýðveldisins til New York, vegna Íslands. Hvern hefði órað fyrir slíku fyrir tuttugu og fimm til þrjátíu árum eða svo?

Til hægri handar, þar sem inn var gengið, var voldug hljómsveit á palli einum miklum, en beggja vegna anddyris blöktu þjóðfánar Bandaríkjanna og Íslands.

Boðsgestir allir, sem skiftu mörgum hundruðum, komu saman á skrifstofu borgarstjóra, sem er hið mesta gímald; um leið og Sveinn forseti kom inn á skrifstofuna, lék hljómsveitin, Ó Guð vors lands, en þegar á eftir þjóðsöng Bandaríkjanna; eg hefi oft viknað við að hlusta á hinn óviðjafnanlega lofsöng Matthíasar frá 1874 í tónbúningi Sveinbjörnssons, en í þetta skiftið fékk viðkvæmni mín, í slíkri órafjarlægð frá Íslandi, á sig nýjan blæ, sem mig brestur orð til að lýsa.

Áður en hin formlega móttökuhátíð fór fram, litaðist eg um eftir föngum í mannþyrpingunni; kom eg þar brátt auga á mörg kunn andlit; eg held helzt að því nær heil og óskift íslenzka nýlendan í New York hafi verið þarna saman komin, ásamt mörgum Íslendingum, sem lengra voru komnir að; þarna var sægur Skandinava; hefir þeim sennilega runnið blóðið til skyldunnar; þarna ægði saman miklum sæg

tungumála, svo sem ítölsku, dönsku, norsku, sænsku og íslenzku; þarna mælti hver á því máli, er helzt hann kaus, og þó ótrúlegt kunni að þykja, fór lang minst fram af samræðum manna á milli á ensku; svona er New York heimsborgaraleg, eða getur að minsta kosti verið það, ef svo býður við að horfa. —

Og nú stígur hinn hörundsdökki og íturvaxni borgarstjóri lítið eitt fram, tekur í hendina á forseta Íslands og býður hann formlega velkominn í nafni borgarbúa; og þarna flutti hann vitaskuld ræðu, eins og hverjum skikkanlegum borgarstjóra, sem teljast vill maður með mönnum, ber að gera; hann lauk máli sínu með eftirgreindum orðum á íslenzku:

"Herra forseti. Viljið þér bera kveðjur fólksins hér í borginni til þjóðar yðar. Skilið til hennar, að það beri vinsemdarhug í brjósti til hennar og óski henni alls hins bezta. — Lengi lifi íslenzka lýðveldið!" —

Sveinn forseti svaraði borgarstjóra með fagurri og íturhugsaðri ræðu, um leið og hann bað Bandaríkja þjóðinni guðs blessunar í framtíð allri.

Það voru fleiri en við Íslendingar, sem urðu snortnir af ljúfmannlegri framgöngu Sveins forseta og hinni prýðilega fluttu ræðu

hans við þetta sögulega tækifæri; það voru undantekningarlaust, allir, allir!

Eftir að öllum hinna mörgu gesta hafði gefist þess kostur, að taka í hönd borgarstjóra og forseta, tóku fylkingar að riðlast, og við óminn af þjóðsöngvum Bandaríkjanna og Íslands, sleit þessari hrífandi móttökuathöfn í voldugustu borg heimsins, sem haldin var vegna forsetans og hins endurborna, íslenzka lýðveldis.

Við, sendifulltrúarnir frá Winnipeg og nokkurir fleiri landar, tókum okkur nú far með neðanjarðarlest, langt, langt út í borgina miklu.

* * *

Við ferðafélagar stigum út úr neðanjarðarlestinni í nánd við Waldorf Astoria hótelið, en þangað var förinni heitið, því Sveinn forseti hafði hlutast til um gestaboð jafnskjótt og því yrði komið við eftir að móttökuhátíðinni í ráðhúsinu sleit; eg var orðinn það hagvanur á Waldorf Astoria, að mér þótti alveg sjálfsagt, að þangað lægi sem oftast sporin; litlu réði þó matur eða veizluást þar um, því hitt var mér langtum ríkara í huga, að hitta sem oftast vini mína, og þá ekki sízt Svein forseta, sem nú var

í þann veginn að kveðja; þetta var skilnaðarboð hans áður en hann hyrfi heim.

Veizla þessi var allfjölmenn og um alt hin virðulegasta; yfir henni hvíldi vingjarnlegur blær; maður var alveg eins og heima hjá sér; enda varð ekki um það vilst, að gestir væru í góðvina höndum.

Forseti bað gesti sína velkomna og bað þá að drekka skál Íslands, og vakti slíkt vitaskuld almennan fögnuð; lét hann þess getið, að áður en máltíðinni jafnvel yrði að fullu lokið, þyrfti hann að leggja af stað, því Alþingi kæmi saman á laugardaginn, en þetta var seinni hluta þriðjudags; þakkaði forseti gestum sínum samveruna og árnaði þeim allra heilla; en þeir báðu hann í staðinn að skila ástarkveðjum til Íslands, og ættsystkinanna, sem landið byggja; þessu jafnframt ávarpaði utanríkisráðherra veizlugesti nokkrum kveðjuorðum, og kvaðst vænta þess að hitta þá sem allra fljótast aftur. Og nú reis hinn ljúfmannlegi forseti íslenzka lýðveldisins úr sæti; skilnaðastundin var runnin upp; hann gekk á röðina og kvaddi hvern gest sinn með handabandi; í handtakinu kendi maður viðkvæmni; að minsta kosti gerði eg það; hann hvíslaði í eyra mér nokkrum orðum, sem rifjuðu upp gamlar endurminningar. og sköpuðu

efni í nýjar; svo hvarf hann út úr veizlusalnum og lagði af stað til flugvallarins; eg fann til þess hvert skarð kom í hópinn við brottför hans úr veizlusalnum.

"Að heilsast og kveðjast, það er lífsins saga."

Nú fór mestur tíminn í að kveðjast; eg kvaddi þarna hinn þróttmannlega utanríkisráðherra, Vilhjálm Þórs, Bjarna Guðmundsson blaðafulltrúa, Jakob Jónsson fylgdarmann forseta, og eg held alla, sem eg náði til, með klökkum huga, jafnvel söknuði, en á hinn bóginn jafnframt með ógleymanlegu þakklæti.

Er eg kom heim á Savoy Plaza, fanst mér eg standa nær ættþjóð minni en nokkru sinni fyr; draumurinn um alfrelsi hennar var nú orðinn að virkri staðreynd; ómótmælanlegri staðreynd, sem allir urðu nú að viðurkenna, og þeim var ljúft að gera; eg hafði kynst við þessa samfundi viturlegum ákvörðunum hinna eldri og reyndari ættbræðra minna, og eldmóði íslenzkrar æsku, sem minti mig á ljóðlínur Jóhannesar úr Kötlum í Alþingishátíðar kantötunni:

*"Vor æska á öndinni stendur*
*við ókunnra hásala dyr."*

Nú eru dyr hinna ókunnu hásala eigi lengur ókunnar íslenzkri æsku; hún hefir sjálf á djarfmannlegan hátt, ýtt lokunni frá. —

Klukkan var orðin 7 um kvöldið, og enn fyrirfann eg sjálfan mig, ásamt ferðafélögum mínum frá Winnipeg og nokkrum öðrum vinum, í dýrðlegum mannfagnaði á Waldorf Astoria; nú vorum við í unaðslegu og ríkmannlegu boði hjá þeim virðulegu höfðingshjónum Thor Thors, sendiherra Íslands í Washington, og hinni ástúðlegu konu hans, frú Ágústu Thors; þessi óviðjafnanlega veizla var haldin í því yndislegasta umhverfi, sem eg nokkru sinni hefi augum litið, eða stjörnu ljósasalnum á Waldorf Astoria hótelinu; hvelfing þessa skrautlega töfrasalar minnti að nokkru á festingu himins, þegar nóttin er sem allra stjörnubjörtust; veggirnir voru gullnir á að líta, en salinn fylti dulrænt ljósgeislahaf; ágæt hljómsveit lék meistaraverk hinna óviðjafnanlegu snillinga, svo sem þeirra Gounouds, Wagners, Verdis og Beethovens; þar var sama sem ekkert um jazz. Þótt þetta alt, er fyrir augu bar væri nýstárlegt og fagurt, hafði það lítil áhrif á mig, borið saman við það, að njóta með félögum mínum hinnar ástúðlegu risnu sendiherrahjónanna og

spjalla saman um Ísland og láta hugann dvelja við framtíð þess.

"Oss dreymir ekki um Ísland, sem stórveldi á mælikvarða stórþjóðanna," sagði Thor sendiherra í veizluræðunni. "En á Íslandi viljum vér stofna fyrirmyndar þjóðfélag, sem í menningarlegum efnum þolir samanburð við hvaða annað þjóðfélag sem er," bætti sendiherrann við.

Það spáir góðu um framtíð Íslands, að eiga í virðulegum trúnaðarstöðum erlendis annan eins vökumann og Thor sendiherra er, með hina tígulegu frú sína við hlið. Ísland stækkar við það, og öryggi þess treystist að sama skapi.

Viðtökur sendiherrahjónanna í stjörnuljósasalnum í stórborginni austur við hafið, gleymast mér aldrei; mig dreymdi um þær nóttina á eftir, og mig dreymir um þær enn.

* * *

Liðið var að miðnætti, er eg kom til íbúðar minnar á Savoy Plaza; eg var glaðvakandi, og fann enga ástæðu til þess að ganga þegar til hvílu; sægur unaðslegra endurminninga frá komu minni til New York á laugardagskvöldið, flögraði um huga minn; allar stóðu þessar endurminningar í órofatengslum við Ísland; norð-

urljósalandið, þar sem eg, "fátækur og fótasár," sleit barnaskónum; landið mitt, sem nú hafði nýverið slitið af sér síðustu höftin, og tekið hið löngu þráða og löngu verðskuldaða tignarsæti meðal alfrjálsra þjóða; landið, sem verða á, að beztu manna yfirsýn, ævarandi heimkynni fyrirmyndar þjóðfélags; vagga bjartra vona og karlmannlegra hugsjóna, þar sem öfl lista og vísinda fallast í faðma við framtak og látlausa iðju; og fólkið að heiman, sem eg undanfarna daga hafði hitt, bar, að því er mér fanst, áminstum ákvörðunum fagurt vitni; að þetta fólk þekkti sinn vitjunartíma, kom mér af viðkynningunni við það, þótt stutt væri, ekki til hugar að efast um; það veit hvað það vill, og stefnir að markmiði sínu af fullri einurð.

Klukkan var víst orðin langt gengin tvö, er eg að lokum tók á mig náðir, og hvað eg mundi hafa sofið lengi frameftir, gat hafa orkað tvímælis, ef ekki hefði verið fyrir það, að síminn hringdi í ákafa; eg greip heyrnartólið í flýti, og bar brátt kennsli á rödd mannsins, sem var að hóa í mig; það var vinur minn Grettir Eggertson rafmagnsfræðingur; hann hafði kvatt mig á skrifstofu minni í Winnipeg seinni hluta laugardagsins, sem eg fór austur og sagt mér það "útþrykkilega," að hann ætlaði að heilsa upp

a mig í New York; hann hafði komið flugleiðis heim nóttina á undan, og beið hann mín niðri í hótelinu ásamt hinni elskuverðu frú sinni, sem er borin og barnfædd í Bandaríkjunum; hann þurfti líka að ná í nafna sinn, Grettir ræðismann, og gekk það greiðlega; eg hafði hraðan við að týgja mig til, og innan fárra mínútna var eg kominn ofan á jafnsléttu, þar sem vinir mínir biðu mín; það er ekkert hálfverk á gestrisni Grettis Eggertssonar, enda kippti honum þá illa í kyn ef svo væri eigi, annar eins höfðingi og Árni heitinn faðir hans var, og Oddný móðir hans þá eigi síður. Og nú fóru þau Grettir og frú með okkur fóstbræðurna frá Winnipeg út í töfraborgina miklu, og þó þau ekki gæti á skömmum tíma sýnt okkur öll ríki veraldarinnar og þeirra dýrð, þá léttu þau ekki för fyr en komið var að skrautlegum gildaskála, þar sem hvorki skorti gleði né góðan fagnað; var þar fyrst, eins og alstaðar annarsstaðar á þessari eftirminnilegu för, drukkin skál Íslands. Grettir Eggertsson hefir í allmörg ár verið búsettur í New York, og haft þar ábyrgðarmikla stöðu á hendi; hann er maður ræktarsamur við íslenzkar menningarerfðir, og bað okkur jafnan að tala við sig íslenzku; "eg tala þá síður bjagað á eftir,"

bætti hann við. Nú var hver mínútan dýrmæt; þetta var minn síðasti dvalardagur í New York. Klukkan hálf-eitt áttum við Grettir ræðismaður að neyta dagverðar hjá Ólafi Johnson stórkaupmanni, en seinna um daginn, að vera gestir hans og frú Johnson á hinu veglega heimili þeirra í einu allra fegursta umhverfi borgarinnar, sem nefnist Forest Hills, eða Skógarhæðir.

Í upphafi þessara fáskrúðugu og ósamstæðu ferðaminninga, mintist eg lítillega á fornvin minn Ólaf Johnson, þar sem eg við móttöku forseta Íslands, utanríkisráðherra og sendiherrahjónanna frá Washington. mætti honum á flugvellinum í New York; þessum líka glæsilega og gestrisna stórhöfðingja íslenzku verzlunarstéttarinnar; við Grettir ræðismaður nutum með honum dýrlegrar máltíðar í afar skrautlegum sal, þar sem alt hjálpaðist að því, að gera samveru stundina sem allra yndislegasta; kunni Ólafur Johnson það ekki, að láta gestum sínum líða vel, hvað margir kunna það þá? "Eg sendi Hannes son minn yfir á Savoy Plaza í bílnum minum seinna í dag," sagði Ólafur, "og bið hann að flytja ykkur, ásamt nokkrum öðrum út í Skógarhæðirnar, heim til okkar hjónanna; blessaðir á meðan." Og

á hinum tiltekna tíma, var Hannes kominn til hótelsins.

Það var enginn smáræðis vegarspotti frá Savoy Plaza og til heimilis Johnson-hjónanna í Skógarhæða dýrðinni óviðjafnanlegu; þetta var óraleið, þótt ferðin að vísu sæktist greiðlega, vegna hins prýðilega farartækis og traustrar forustu hins unga, en óskeikula bílstjóra; í hvaða átt, sem litið var, blasti við auga ósegjanleg náttúrufegurð, auk þess sem svipur híbýlanna og skrautgarðanna umhverfis þau, báru dásamlegt vitni nánu samstarfi guðs og manna.

Nú vorum við ferðafélagar komnir á breiða veginn; prestar fara stundum þann veg alveg eins og aðrir dauðlegir menn. Séra Valdimar var í hópnum; bíllinn nam snöggvast staðar vegna ljósaskipta. "Lítið á þetta," sagði séra Valdimar, en hann er manna fljótastur að átta sig á skrítnum fyrirbærum. Mér varð litið til hliðar, og sé eg þá að maður var að raka sig í bílnum meðan við biðum eftir græna ljosinu. Efist nú hver sem vill um það að Bandaríkjamenn kunni ekki að nota tímann."

Nú var numið staðar framan við yndislegan bústað í Skógarhæða umhverfinu; þetta var Esjuberg, heimili þeirra Ólafs stórkaupmanns og frú Guðrúnar Johnson. Foreldrar Ólafs voru

Þorlákur Johnson og Ingibjörg frá Esjubergi, en frú Guðrún er dóttir þeirra Árna á Geitaskarði og Hildar konu hans; okkur var tekið með opnum örmum; nú syngjum við undir eins "Ó, Guð vors lands," segir Ólafur húsráðandi. "Þú ættir að geta glamrað eitthvað á píanóið, Einar minn," bætti hann við með sínu ógleymanlega brosi; hér voru engin undanbrögð hugsanleg; að deila við dómarann náði vitaskuld ekki nokkurri átt. Eg mundi glögt eftir Esjubergi heima; það blasti við auga frá Reykjavík. En að fyrirfinna Esjuberg í New York, varð mér meira en lítið undrunarefni; á gestrisninni furðaði mig ekki; hún var mér fyrir löngu kunn, að minsta kosti af hálfu húsbóndans. Geitaskarðs fjölskylduna þekkti eg aðeins af afspurn; nú sannfærðist eg skjótt um það af bæjarbragnum á Esjubergi í Skógarhæðunum, hvernig högum muni hafa verið háttað á Geitaskarði í Húnaþingi, þar sem hin tígulega húsmóðir ólst upp. Yfir heimili þeirra Johnsonhjóna hvílir íslenzk ástúð; eg vissi að eg var í vinahöndum; mér fanst eg vera kominn heim, heim til landsins, sem ól mig, heim til Íslands!

Nú var tekið að líða á dag, og eg varð að ná í lestina um kvöldið. Ólafur stórkaupmaður bað mig að minnast Íslands með fáeinum orðum, og

var mér það vitaskuld ljúft, en um leið notaði eg tækifærið til þess að þakka húsbónda hið virðulega heimboð. Séra Valdimar mælti fyrir minni frú Guðrúnar af hinni mestu snild; þau eru kunnug frá æskuárum. Nú var skilnaðarstundin runnin upp. Eg kvaddi vini mína í Skógarhæðunum með klökkum huga og þakklæti, sem verður mér samferða fram á brautarenda.

Þegar eg kom aftur heim á Savoy Plaza, var ekki um annað að gera en tína saman pjónkur mínar og búast til brottferðar. Fram að þessu hafði eg ekki getað trygt mér hvílu í svefnvagni, því ferðalög í Bandaríkjunum á stríðstímum eru engan veginn auðveld; hermennirnir skipa jafnan fyrirrúm. Grettir ræðismaður er sjaldan sofandi á ferðalagi; áður en eg hafði nokkra minstu vitneskju um, var hann búinn að útvega mér hvílustað í "Pullman," en slíkt er nafnið á fullkomnasta svefnvagnafélagi sem Bandaríkin eiga í eigu sinni. "Eg skil ekki við þig fyr en lestin fer," sagði Grettir vinur minn; hann ók með mér á járnbrautarstöðina og kvaddi mig í svefnvagninum. Eg tók skjótt á mig náðir, féll í væran svefn, og vaknaði ekki fyr en lestin rann inn í Buffalo morguninn eftir; þá ýtti við mér innflutningaumboðsmaður

Bandaríkjastjórnar og spurði um skilríki mín; þau voru í jakkavasanum; það fyrsta, sem fyrir mér varð, var boðsbréf frá La Guardia að móttökufagnaðinum í ráðhúsi New York borgar fyrir forseta Íslands. Sá borðalagði leit á umslagið og spurði mig ekki frekari spurninga; innan skamms var eg kominn til Toronto; eg var enn eigi með öllu afþreyttur og fékk mér því undir eins herbergi á hóteli; í Toronto varð eg að bíða heilan dag eftir kvöldlestinni; allan þann dag var leiðinda veður, kalsi og rigning, og var eg því bezt settur innan dyra; seinnipart dagsins hringdi eg þó upp einn kollega minn í ríki blaðamennskunnar, sem eg hafði þekkt í allmörg ár; hann kom þegar til mín á hótelið; við vorum úti um hríð, og hann skildi ekki við mig fyr en lestin mjakaðist af stað um kvöldið.

Á leiðinni vestur bar ekkert það við, er í frásögur sé færandi; mér varð tíðhugsað til ferðafélaga minna frá Winnipeg, er ekkert höfðu látið ógert til þess að gera mér dvölina í New York sem allra ánægjulegasta; þá voru og andlitin frá Íslandi engu óskýrari í huga mínum, því allan tímann í New York hafði eg verið í andlegri nálægð við Ísland, uppruna minn og ætt. Heimboðið til New York verður

mér með öllu ógleymanlegt; þar hafði eg komist næst Íslandi síðan eg fór að heiman.

Um hádegisbil á laugardaginn, átta dögum eftir að lagt var upp í ferðalagið, rann eimlestin inn á Canadian National járnbrautarstöðina í Winnipeg; þar fögnuðu þau mér konan mín og Grettir ræðismaður; þá vissi eg, að eg var kominn að heiman — og heim.

